*Reglur.*

1) Deil þeim sk., er *únsían* kostar, með 8; þá koma út rbd. fyrir pd.

2) Pd. kostar jafnmarga rbd. og *drakma* sk.

3) *Únsían* kostar jafnopt 5 rbd., eins og granið kostar marga sk.

4) Pd. kostar jafnopt 3 rbd., eins og *skrúpullinn* kostar marga sk.

*Dæmi.*

1) Hvað kostar pd., þegar *únsían* kostar 2 mörk 8 sk. (40 sk.)? Svar: 8 i 40 eru 5 sinnum; þess vegna 5 rbd.

2) Hvað kostar pd., þegar *drakman* kostar 14 sk.? Svar: 14 rbd.

3) Hvað kostar *únsían*, þegar granið kostar 3 sk.? Sv. 5 sinn. 3 rbd. eða 15 rbd.

4) Hvað kostar pd., þegar *skrúpullinn* kostar 6 sk.? Sv. 6 sinn. 3 rbd. eða 18 rbd.

---

## *III. Mál.*

### 1) Vörur.

(Salt, steinkol, hörkur, korn, kúmen, kalk, síld, ávextir, smjör, kjöt, flesk, aðrar feitartegundir, o. s. frv.).

1 lest af steinkolum eða berki er 18 tunnur, hver 10 skeppur, en 1 lest af spönsku salti er 18 tunnur, hver 8 skp.

1 lest af korni, frönsku salti o. s. frv. er 12 tunnur.

1 tunna er 8 skeppur.

1 skeppa er 4 fjórðungsker.

1 fjórðk. er 2 áttungar.

1 áttungur er 2 hálfáttungar.

1 hálfáttungur er $1\frac{1}{8}$ pott.

1 pottur er 4 pelar.

(Steinkola - og barkartunna á að vera $5\frac{1}{2}$ teningsfet að innanrúmi; korn - og kalktunna $4\frac{1}{2}$ teningsfet; tunna af spönsku salti — er áður var $5\frac{1}{2}$ teningsfet eða 176 pottar — $4\frac{1}{2}$ teningsfet, samkvæmt *Cansellie*-brjefi dags. 6. dag júnímán 1829.

1 tunna af norsku salti á að vega 250 pd.

1 *Kartel* er mælir við verzlunina á Grænlandi, er tekur $2\frac{1}{2}$ tunnu danska.

1 kornlest, farmrúm í skipi, er venjulega talin 22 tunnur.

1 viðarlest er 4000 pd.

1 varningslest *(Commercelæst)* er 5200 pd. [1]), ellegar smávarningur, er rúmast í 80 teningsfetum. Þannig fara í 1 varningslest: 18 tunnur af biki og tjöru; 10 skp. af hör; 2 faðmar af $1\frac{1}{4}$ álnar löngu brenni; 26 tunnur af korni; 18 skp. af þurkuðum salt-

---

[1]) Í Úrsíns reikningsbók er hún talin 4000 pd.

fiski; 15 skp. af hörðum fiski; 1 hestur; 16 knippi af umbúðamottu, 10 í hverju; 20 tunnur af salti og steinkolum; 32 strangar af segldúki, 2 í hverjum; 1750 þaksteinar; 80 teningsfet af eikar- og 100 teningsfet af furu-trjám plönkum og borðum; 80 heilar og 120 hálfar krukkur af vínberjum, o. s. frv.).

Í þessari töflu sjest þetta betur.

| Lest | Tunna | Skeppa | Fjórðk. | Áttungur | Hálfátt. | Pottur | Peli |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1 | 12 | 96 | 384 | 768 | 1536 | 1728 | 6912 |
| | 1 | 8 | 32 | 64 | 128 | 144 | 576 |
| | | 1 | 4 | 8 | 16 | 18 | 72 |
| | | | 1 | 2 | 4 | $4\frac{1}{2}$ | 18 |
| | | | | 1 | 2 | $2\frac{1}{4}$ | 9 |
| | | | | | 1 | $1\frac{1}{8}$ | $4\frac{1}{2}$ |
| | | | | | | 1 | 4 |

*Reglur.*

1) Tunnan kostar helmingi fleiri mörk, en fjórðungskerið kostar marga sk.

2) Fjórðungskerið kostar helmingi færri sk, en tunnan kostar mörg mörk.

3) Tunnan kostar helmingi færri mörk, en skeppan kostar marga sk.

4) Skeppan kostar helmingi fleiri sk., en tunnan kostar mörg mörk.

5) Skeppan kostar helmingi færri mörk, en áttungurinn kostar marga sk. — Og jafnopt 8 rbd. fyrir lestina, eins og sk. fyrir áttunginn.

6) Tunnan kostar jafnopt 2 rbd., eins og áttungurinn kostar marga þrísk.

7) Lestin kostar jafnmarga rbd., eins og skeppan kostar marga sk.

8) Skeppan kostar jafnmarga sk., eins og lestin kostar marga rbd.

9) Tunnan kostar jafnopt 6 rbd., og kornlestin jafnopt 72 rbd., eins og pelinn kostar marga sk.

10) Kornlestin kostar

jafnopt 18 rbd., eins og potturinn kostar marga sk.

11) Tunnan kostar jafnopt 3 rbd., eins og potturinn kostar marga tvískild.

12) Skeppan kostar jafnopt 3 rbd., eins og potturinn kostar mörg mörk.

13) Skeppan kostar jafnmörg mörk, og kornlestin jafnopt 16 rbd., eins og hálfáttungurinn kostar marga sk.

14) Tunnan kostar jafnopt 4 rbd., eins og hálfáttungurinn kostar marga þrískildinga.

*D æ m i.*

1) Hvað kostar tunnan, þegar fjórðungskerið kostar 11 sk.? Svar: 22 mörk (3 rbd. 4 mörk).

2) Hvað kostar fjórðungskerið, þegar tunnan kostar 2 rbd. (12 mörk)? Svar: 6 sk.

3) Hvað kostar tunnan, þegar skeppan kostar 14 sk.? Svar: 7 mörk (1 rbd. 1 mark). — Hvað kostar tunnan, þegar skeppan kostar 1 mark 9 sk. (25 sk.)? Sv.: 12½ mark (2 rbd. 8 sk.).

4) Hvað kostar skeppan, þegar tunnan kostar 4 mörk? Svar: 8 sk. — Hvað kostar skeppan, þegar tunnan kostar 4 mörk 8 sk. (4½ mark)? Svar: 9 sk.

5) Hvað kostar skeppan, þegar áttungurinn kostar 10 sk.? Svar: 5 mörk. — Hvað kostar lestin, þegar áttungurinn kostar 10 sk.? Svar: 80 rbd.

6) Hvað kostar tunnan, þegar áttungurinn kostar 9 sk. (3 þrískildinga)? Sv.: 3 sinnum 2 rbd. eða 6 rbd.

7) Hvað kostar lestin, þegar skeppan kostar 2 mörk (32 sk.)? Sv. 32 rbd.

8) Hvað kostar skeppan, þegar lestin kostar 24 rbd.? Svar: 24 sk. eða 1 mark 8 sk.

9) Hvað kostar tunnan, þegar pelinn kostar 4 sk.? Svar: 4 sinnum 6 rbd. eða 24 rbd. — Hvað kostar lestin, þegar pelinn kostar 4 sk.? Svar: 4 sinn. 72 rbd. eða 288 rbd.

10) Hvað kostar lestin, þegar potturinn kostar 5 sk.? Svar: 5 sinn. 18 rbd. eða 90 rbd.

11) Hvað kostar tunnan, þegar potturinn kostar 8 sk. (4 tvískildinga)? Svar: 4 sinnum 3 rbd. eða 12 rbd.

12) Hvað kostar skeppan, þegar potturinn kostar 2 mörk? Svar: 2 sinnum 3 rbd. eða 6 rbd.

13) Hvað kostar skeppan, þegar hálfáttungurinn kostar 15 sk.? Svar: 15 mörk eða 2 rbd. 3 mörk. — Hvað kostar lestin þá? Svar: 15 sinnum 16 rbd. eða 240 rbd.

14) Hvað kostar tunnan, þegar hálfáttungur kostar 12 sk. (4 þrískildinga)?

Svar: 4 sinnum 4 rbd. eða 16 rbd.

*2) Lagarmál.*

*a)* Öl, brennivín, edik, olía o. s. frv.

1 tunna er 2 hálftunnur.
1 hálft. er 2 tunnufjórðungar.
1 tunnufjórð. er 2 ánker.
1 ánker er 17 pottar.
1 pottur er 4 pelar.

(Lagartunnan á að vera $4\frac{1}{4}$ teningsfet að innanrúmi eða taka 136 potta; lýsis- og tjöru-tunnan á þó ekki að vera nema $3\frac{3}{4}$ teningsfet að innanrúmi eða taka 120 potta, og hver pottur á að vega $1\frac{3}{4}$ pd.).

Í þessari töflu sjest þetta betur.

| Tunna | Hálftunna | Tunnufjórð. | Ánker | Hálfánker | Pottur | Peli |
|---|---|---|---|---|---|---|
| 1 | 2 | 4 | 8 | 16 | 136 | 544 |
| | 1 | 2 | 4 | 8 | 68 | 272 |
| | | 1 | 2 | 4 | 34 | 136 |
| | | | 1 | 2 | 17 | 68 |
| | | | | 1 | $8\frac{1}{2}$ | 34 |
| | | | | | 1 | 4 |

*Reglur.*

1) Margfalda þá sk., er pelinn kostar, með 17, og deil með 3; þá koma út rbd. fyrir tunnuna.

2) Margfalda þá rbd., er tunnan kostar, með 3, og deil með 17; þá koma út sk. fyrir pelann.

3) Margfalda þá sk., er potturinn kostar, með 17, og deil með 12 eða 24 eða 48; þá koma út rbd. fyrir tunnuna eða hálftunnuna eða tunnufjórðunginn.

4) Margfalda þá rbd., er tunnan eða hálftunnan eða tunnufjórð. kostar, með 12 eða 24 eða 48, og deil með 17; þá koma út sk. fyrir pottinn.

*Dæmi.*

1) Hvað kostar tunnan, þegar pelinn kostar 9 sk.? Svar: 17 sinnum 9 eru 153,

og 3 í 153 er 51 sinni; tunnan kostar því 51 rbd.

2) Hvað kostar pelinn, þegar tunnan kostar 68 rbd.? Svar: 3 sinnum 68 eru 204, og 17 í 204 eru 12 sinn.; þess vegna 12 sk.

3) Hvað kostar tunnan, þegar potturinn kostar 12 sk.? Svar: 17 sinnum 12 eru 204, og 12 í 204 eru 17 sinnum; tunnan kostar því 17 rbd.; — hvað kostar þá hálftunnan? Svar: $8\frac{1}{2}$ rbd.; — en hvað kostar þá tunnufjórð.? Svar: $4\frac{1}{4}$ rbd.

4) Hvað kostar potturinn, þegar tunnan kostar 34 rbd.? Sv.: 12 sinnum 34 eru 408, og 17 í 408 eru 24 sinnum, potturinn kostar því 24 sk. — Hvað kostar potturinn, þegar hálftunnan kostar 34 rbd.? Svar: 3 mörk. — Hvað kostar hann þá, þegar tunnufjórð. kostar 34 rbd.? Svar: 1 rbd.

*b)* Vín, romm, *Arak* o. s. frv.

1 *Stykfad* er $1\frac{1}{4}$ fat eða *Fudder*.

1 fat er 2 pípur.

1 pípa er 2 uxahöfuð.

1 uxah. er $1\frac{1}{2}$ áma eða *Tjerce*.

1 áma er 4 ánker.

1 ánker 5 kútar *(Fjertel)*.

1 kútur *(Fjertel)* er 2 *Stöbken*.

1 *Stöbken* er 2 könnur.

1 kanna er 2 pottar.

1 pottur [1]), er 4 pelar.

(Romm frá Vestur-Indlandi er selt í *Gallon*, 4 potta máli).

---

[1]) Á Íslandi er 1 mörk sama sem $\frac{1}{2}$ pottur.

Í þessari töflu sjest þetta betur.

| | | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Peli | 4800 | 3840 | 1920 | 960 | 640 | 640 | 160 | 32 | 16 | 8 | 4 |
| Pottur | 1200 | 960 | 480 | 240 | 160 | 160 | 40 | 8 | 4 | 2 | 1 |
| Kanna | 600 | 480 | 240 | 120 | 80 | 80 | 20 | 4 | 2 | 1 | |
| Stöbken | 300 | 240 | 120 | 60 | 40 | 40 | 10 | 2 | 1 | | |
| Kútur | 150 | 120 | 60 | 30 | 20 | 20 | 5 | 1 | | | |
| Ánker | 30 | 24 | 12 | 6 | 4 | 4 | 1 | | | | |
| Tjerce | 7½ | 6 | 3 | 1½ | 1 | 1 | | | | | |
| Áma | 7½ | 6 | 3 | 1½ | 1 | | | | | | |
| Uxah. | 5 | 4 | 2 | 1 | | | | | | | |
| Pípa | 2½ | 2 | 1 | | | | | | | | |
| Fat | 1¼ | 1 | | | | | | | | | |
| Stykf. | 1 | | | | | | | | | | |

*Reglur.*

1) Fatið kostar jafnopt 10 rbd., og pípan jafnopt 5 rbd., eins og potturinn kostar marga sk.

2) Deil þeim rbd., er fatið kostar, með 10, — þeim, er pípan kostar, með 5, þá koma út sk. fyrir pottinn.

3) Uxahöfuðið kost. jafnopt 5 rbd., eins og potturinn kostar marga tvískildinga. — Eða: margfalda sk. fyrir pottinn með 5, og deil með 2, þá koma út rbd. fyrir uxahöfuðið.

4) Margfalda þá rbd., er uxahöfuðið kostar, með 2, og deil með 5, þá koma út sk. fyrir pottinn. — Eða: potturinn kostar jafnmarga

fjórskildinga, eins og uxahöfuðið kostar opt 10 rbd., jafnmarga tvískildinga, eins og uxahöf. kostar opt 5 rbd., og til hvers 1 rbd: fyrir uxah. svara $\frac{2}{5}$ sk. fyrir pottinn.

5) 1 *Stykfad* kostar jafnopt 5 rbd., — fatið jafnopt 40 rbd., — pípan jafnopt 20 rbd., og uxah. jafnopt 10 rbd., eins og pelinn kostar marga sk.

6) Deil þeim rbd., er 1 *Stykfad* kostar, með 50, — þeim, er fatið kostar, með 40, — þeim, er pípan kostar, með 20, — þeim, er uxah. kostar, með 10, þá koma út þeir sk., er pelinn kostar.

7) 1 *Stöbken* kostar jafnmörg mörk, og pelinn kostar marga sk.

8) Pelinn kostar jafnmarga sk., eins og 1 *Stöbken* kostar mörg mörk.

9) Margfalda þá rbd., er ánkerið kostar, með 3, og deil með 5; það, sem út kemur, eru sk. fyrir pelann.

10) Áman kostar jafnopt 20 rbd., og ánkerið jafnopt 5 rbd., eins og pelinn kostar marga þrískildinga.

11) Margfalda þá rbd., er áman kostar, með 3, og deil með 20, þá koma út sk. fyrir pelann.

*Dæmi.*

1) Hvað kostar fatið, þegar potturinn kostar 11 sk.? Svar: 11 sinnum 10 rbd. eða 110 rbd.; — hvað kostar þá pípan? Svar: 11 sinnum 5 eða 55 rbd.

2) Hvað kostar potturinn, þegar fatið kostar 125 rbd.? Svar: 10 í 125 eru $12\frac{1}{2}$ sinni, þess vegna $12\frac{1}{2}$ sk. — Hvað kostar potturinn, þegar pípan kostar 70 rbd.? Svar: 5 í 70 eru 14 sinn.; potturinn kostar því 14 sk.

3) Hvað kostar uxah., þegar potturinn kostar 1 mark 4 sk. (10 tvískildinga)? Svar: 10 sinnum 5 rbd. eða 50 rbd. — Eða: 1 mark 4 sk. eru 20 sk.; 5 sinnum 20 er 100, og 2 í 100 eru 50 sinnum; uxah. kostar því 50 rbd.

4) Hvað kostar potturinn, þegar uxah. kostar 78 rbd.? Svar: 2 sinnum 78 eru 156, og 5 í 156 eru $31\frac{1}{5}$ sinn.; potturinn kostar því $31\frac{1}{5}$ sk., eða 1 mark $15\frac{1}{5}$ sk. — Eða: til hverra 10 rbd. í verði uxahöfuðsins svara 4 sk. í verðinu á pottinum; þess vegna 7 sinnum 4 eða 28 sk. til 70 rbd., til 5 rbd. svara 2 sk. og til hvers af hinum 3 seinustu rbd. svara $\frac{2}{5}$ sk., og 3 sinnum $\frac{2}{5}$ sk. eru $1\frac{1}{5}$ sk.; potturinn kostar því 28, 2 og $1\frac{1}{5}$ sk. eða $31\frac{1}{5}$ sk. (1 mark $15\frac{1}{5}$ sk.).

5) Hvað kostar 1 *Stykfad*, þegar pelinn kostar 5 sk.? Svar: 5 sinnum 50 eða 250 rbd.; — hvað kostar þá fatið? Svar: 5 sinnum 40

eða 200 rbd.; — hvað kostar þá pípan? Svar: 5 sinn. 20 eða 100 rbd.; — hvað kostar þá uxah.? Svar: 5 sinn. 10 eða 50 rbd.

6) Hvað kostar pelinn, þegar 1 Stykfad kostar 300 rbd.? Svar: 6 sk. — Hvað kostar pelinn, þegar fatið kostar 280 rbd.? Svar: 7 sk. — Hvað kostar pelinn, þegar pípan kostar 160 rbd.? Svar: 8 sk. — Hvað kostar pelinn, þegar uxahhöf. kostar 100 rbd.? Svar: 10 sk.

7) Hvað kostar 1 *Stöbken*, þegar pelinn kostar 1 mark 3 sk.? Svar: 3 rbd. 1 mark.

8) Hvað kostar pelinn, þegar 1 *Stöbken* kostar 6 rbd.? Svar: 2 mörk 4 sk.

9) Hvað kostar pelinn, þegar ánkerið kostar 15 rbd.? Svar: 9 sk.

10) Hvað kostar áman, þegar pelinn kostar 9 sk.? Svar: 60 rbd.; — hvað kostar þá ánkerið? Svar: 15 rbd.

11) Hvað kostar pelinn, þegar áman kostar 30 rbd.? Svar: $4\frac{1}{2}$ sk.

### *3) Lengdarmál.*

*a)* Álna - og fetamál.

1 þingmannaleið er 5 mílur (danskar) [1].

1 dönsk míla er 12000 álnir.

1 jarðmálsmíla er $11840\frac{1}{2}$ alin.

1 mæliskapt *(Rode)* er 2 faðmar.

1 faðmur er 3 álnir.

1 alin er 2 fet.

1 fet er $\frac{1}{2}$ alin eða 2 kvartil.

1 kvartil er 6 þumlungar.

1 þuml. er 12 línur eða strá.

Í þessari töflu sjest þetta betur.

| Mæliskapt | Faðmar | Álnir | Fet | Kvart. | þuml. | Línur |
|---|---|---|---|---|---|---|
| 1 | 2 | 6 | 12 | 24 | 144 | 1728 |
| | 1 | 3 | 6 | 12 | 72 | 864 |
| | | 1 | 2 | 4 | 24 | 288 |
| | | | 1 | 2 | 12 | 144 |
| | | | | 1 | 6 | 72 |
| | | | | | 1 | 12 |

[1]) 1 vika (sjóar) er 1 míla dönsk.

*Reglur.*

1) Margfalda þá sk., er þuml. kostar, með 3, og deil með 4 eða 12; þá koma út rbd. fyrir faðminn eða alinina.

2) Margfalda þá rbd., er faðmurinn kostar, með 4, og þá, er alinin kostar, með 12, og deil hvoru fyrir sig með 3; þá koma út sk. fyrir þumlunginn.

3) Mæliskaptið kostar jafnopt 18 rbd., — faðmurinn jafnopt 9 rbd., — alinin jafnopt 3 rbd., eins og línan kostar marga skild.

4) Deil rbd., er mæliskaptið kostar, með 18, — þeim er faðmurinn kostar, með 9, — þeim er alinin kostar, með 3; þá koma út sk. fyrir línuna.

*Dæmi.*

1) Hvað kostar faðmurinn, þegar þumlungurinn kostar 7 sk.? Svar: 3 sinn. 7 eru 21, og 4 í 21 eru $5\frac{1}{4}$ sinnum; faðmurinn kostar því $5\frac{1}{4}$ rbd., eða 5 rbd. 1 mark 8 sk. — Hvað kostar alinin, þegar þuml. kostar 11 sk.? Svar: 3 sinnum 11 eru 33, og 12 í 33 eru $2\frac{3}{4}$ sinn.; alinin kostar því $2\frac{3}{4}$ rbd. eða 2 rbd. 4 mörk 8 sk.

2) Hvað kostar þuml., þegar faðmurinn kostar 8 rbd.? Svar: 4 sinnum 8 eru 32, og 3 í 32 eru $10\frac{2}{3}$ sinn.; þuml. kostar því $10\frac{2}{3}$ sk. — Hvað kostar þuml., þegar alinin kostar 3 rbd.? Svar: 12 sinnum 3 eru 36, og 3 í 36 eru 12 sinnum; þess vegna 12 sk.

3) Hvað kostar mæliskaptið, þegar línan kostar 4 sk.? Sv.: 72 rbd. — Hvað kostar faðm., þegar línan kostar 9 sk.? Svar: 81 rbd. — Hvað kostar alinin, þegar línan kostar 12 sk.? Sv. 36 rbd.

4) Hvað kostar línan, þegar mæliskaptið kostar 36 rbd.? Svar: 2 sk. — Hvað kostar línan, þegar faðmurinn kostar 24 rbd.? Svar: $2\frac{2}{3}$ sk. — Hvað kostar línan, þegar alinin kostar 8 rbd.? Svar: $2\frac{2}{3}$ sk.

*b)* Tuga - eða línumál við landamælingu.

$1^{0}$ mælisk. (Rode) er $10'$ (fet) [1].
$1'$ - $10''$ (þuml.).
$1''$ - $10'''$ (grön eða línur).
$1'''$ er $10''''$ (fyrsti skrúpull).
$1''''$ - $10^{V}$ (annar skrúpull).
$1^{V}$ - $10^{VI}$ (þriðji skrúpull).
o. s. frv.

*c)* Flatamál.

1 □ faðmar (ferhyrndur faðm.) er 9 □ álnir.
1 □ alin er 4 □ fet.
1 □ fet er 144 □ þuml.
1 □ þumlungur er 144 □ línur.

[1]) Fetið er hið sama og í a).

Í þessari töflu er það fullkomnara.

| □ faðm. | □ alin | □ fet | □ þuml. | □ lína |
|---|---|---|---|---|
| 1 | 9 | 36 | 5184 | 746496 |
| | 1 | 4 | 576 | 82944 |
| | | 1 | 144 | 20736 |
| | | | 1 | 144 |

*Reglur.*

1) Margfalda þá sk., er □ þuml. kostar, með 54 eða 6; þá koma út rbd. fyrir □ faðm eða □ alin.

2) Deil þeim rbd., er □ faðmur kostar, með 54 og þeim, sem □ alin kostar, með 6; þá koma út sk. fyrir □ þuml.

*Dæmi.*

1) Hvað kostar 1 □ faðmur, þegar 1 □ þuml. kostar 5 sk.? Svar: 270 rbd. — Hvað kostar 1 □ alin, þegar 1 □ þuml. kostar 2 sk.? Sv.: 12 rbd.

2) Hvað kostar 1 □ þuml., þegar 1 □ faðmur kostar 81 rbd.? Sv. $1\frac{1}{2}$ sk. — Hvað kostar 1 □ þumlungur, þegar 1 □ alin kostar 14 rbd.? Sv.: $2\frac{1}{3}$ sk.

*d)* Hringmál.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1 hringur | er | $360^{0}$ | (mælistig). |
| $1^{0}$ | - | $60'$ | (mínútur). |
| $1'$ | - | $60''$ | (sekúndur). |
| $1''$ | - | $60'''$ | (tertsíur). |
| $1'''$ | - | $60''''$ | (kvartar). |
| $1''''$ | - | $60^{v}$ | (kvintar). |
| $1^{v}$ | - | $60^{vi}$ | (sextar). |

T. a. m. $24^{0}\ 18'\ 56''\ 49'''\ 8''''\ 28^{v}\ 37^{vi}$ (24 mælistig, 18 mínútur, 56 sekúndur, 49 tertsíur, 8 kvartar, 28 kvintar og 37 sextar).

Hnattstaða Reykjavíkur er $64^{0}\ 8'\ 40''$ norðlægrar breiddar og $34^{0}\ 35'\ 0''$ fyrir vestan Kaupmannahöfn.

*e)* Jarðamál í Danm. *(Hartkorns-Maal).*

1 tunna er 8 skeppur.

1 skeppa er 4 fjórðungsker.

1 fjórðungsker er 3 tólftungar skeppu (*Album*).

(1 tunnu land er í landamælingum 14000 □ álnir; en jarðyrkjumenn telja 1 tunnu rúgekru ekki nema 11000, byggekru 10000 og hafra-ekru 8000 □ álnir).

Í þessari töflu er þetta fullkomnara.

| Tunna | Skeppur | Fjórðk. | Tólft. skp. |
|---|---|---|---|
| 1 | 8 | 32 | 96 |
| | 1 | 4 | 12 |
| | | 1 | 3 |

*Reglur.*

1) Tunnan kostar jafnmarga rbd., og tólft. kostar marga sk.

2) Tólftungurinn kostar jafnmarga sk., eins og tunnan kostar marga rbd.

3) Tunnan kostar helmingi fleiri mörk, en fjórðk. kostar marga sk.

4) Fjórðk. kostar helmingi færri sk., en tunnan kostar mörg mörk.

*Dæmi.*

1) Hvað kostar tunnan, þegar tólft. kostar 12 sk.? Svar: 12 rbd.

2) Hvað kostar tólft., þegar tunnan kostar 7 rbd.? Svar: 7 sk.

3) Hvað kostar tunnan, þegar fjórðk. kostar 1 mark 1 sk. (17 sk.)? Svar: 34 mörk eða 5 rbd. 4 mörk.

4) Hvað kostar fjórðk., þegar tunnan kostar 7 rbd.? 2 mörk (44 mörk)? Svar: 22 sk. eða 1 mark 6 sk.

*f*) Túna- og engjamál.

1 vikuverk er 6 dagsláttur (eyrisvellir, teigir).

1 kýrvöllur er 3 dagsláttur.

(Dagslátta í túni er ferskeyttur völlur, 30 faðmar á hvern veg, eða 900 □ faðmar eða 8100 □ álnir. Engjadagslátta er ferskeytt engi, sem sje 40 faðmar á hvern veg; hún er því 1600 □ faðmar eða 14400 □ álnir, nokkuð stærri en 1 tunnu land).

*g*) Mál á innanrúmi eða líkamsstærð (teningsmál).

1. Brenni.*

1 teningsfaðmur (brennifaðmur) er 9 teningsálnir.

1 teningsalin er 8 teningsfet.

1 teningsfet er 8 teningskvartil.

(Brennifaðmur er brennihlaði, hlaðinn úr álnarlöngum brennikubbum, hann er faðmur á hæð og faðmur á breidd).

Í þessari töflu er það greinilegra.

| Ten. faðm. | Ten. áln. | Ten. fet | Ten. kvart. | Ten. þuml. |
|---|---|---|---|---|
| 1 | 9 | 72 | 576 | 41472 |
| | 1 | 8 | 64 | 4608 |
| | | 1 | 8 | 576 |
| | | | 1 | 72 |

*Reglur.*

1) Margfalda þá sk., er fetið kostar, með 3, og deil með 4; þá koma út rbd. fyrir faðminn.

2) Margfalda þá rbd., er faðmurinn kostar, með 4, og deil með 3; þá koma út sk. fyrir fetið.

3) Margfalda þá sk., er teningskvartilið kostar, með 6; þá koma út rbd. fyrir teningsfaðminn.

4) Deil þeim rbd., er faðmurinn kostar, með 6; þá koma út sk. fyrir kvart.

*Dæmi.*

1) Hvað kostar faðmurinn, þegar fetið kostar 8 sk.? Svar: 3 sinnum 8 eru 24, og 4 í 24 eru 6 sinn.; faðmurinn kostar því 6 rbd.

2) Hvað kostar fetið, þegar faðmurinn kostar 14 rbd.? Svar: 4 sinn. 14 eru 56, og 3 í 56 eru 18$\frac{2}{3}$ sinnum; fetið kostar því 18$\frac{2}{3}$ sk.

3) Hvað kostar faðmurinn, þegar kvartilið kostar 6 sk.? Svar: 36 rbd.

4) Hvað kostar kvartilið, þegar faðmurinn kostar 22 rbd.? Svar: 3$\frac{2}{3}$ sk.

2. Tígulsteinn.

1 faðmur er 27 álnir.
1 alin er 8 fet.
1 fet er 8 kvartil.

(Hjer er faðmurinn öldungis teningsmyndaður, og þess vegna jafn á alla vega, lengd, breidd og hæð, hann er því 3 sinn. eins stór og brennifaðmurinn).

Í þessari töflu er þetta greinilegra.

| Faðm. | Áln. | Fet | kvart. | þuml. |
|---|---|---|---|---|
| 1 | 27 | 216 | 1728 | 373248 |
| | 1 | 8 | 64 | 13824 |
| | | 1 | 8 | 1728 |
| | | | 1 | 216 |

*Reglur.*

1) Faðmurinn kostar jafnopt 9 rbd., eins og alinin kostar opt 2 mörk.

2) Margfalda þá sk., er fetið kostar, með 9, og deil með 4; þá koma út rbd. fyrir faðminn.

3) Margfalda þá rbd., er faðmurinn kostar, með 3, og deil með 9; þá koma út sk. fyrir fetið.

4) Faðmurinn kostar jafnopt 18 rbd., eins og kvart. kostar marga sk.

5) Deil þeim rbd., er faðm. kostar, með 18, þá koma út þeir sk., er kvart. kostar.

*Dæmi.*

1) Hvað kostar faðmurinn, þegar alinin kostar 4 mörk (2 sinnum 2 mörk)? Svar: 2 sinnum 9 rbd. eða 18 rbd.

2) Hvað kostar faðm., þegar fetið kostar 3 sk.? Svar: 9 sinnum 3 eru 27, og 4 í 27 eru 6 sinnum, og ganga af 3 rbd. eða 18 mörk, 4 í 18 mörk eru 4 sinnum, ganga af 2 mörk eða 32 sk., 4 í 32 eru 8 sinnum; faðm. kostar því 6 rbd. 4 mörk 8 sk.

3) Hvað kostar fetið, þegar faðmurinn kostar 10 rbd.? Svar: 4 sinn. 10 eru 40, og 9 í 40 eru $4\frac{4}{9}$ sinn.; fetið kostar því $4\frac{4}{9}$ sk.

4) Hvað kostar faðm., þegar kvartilið kostar 4 sk.? Svar: 4 sinn. 18 rbd. eða 72 rbd.

5) Hvað kostar kvartilið, þegar faðm. kostar 48 rbd.? Svar: $2\frac{2}{3}$ sk.

3. Hey.

1 málfaðmur eða mælihlass heys er eptir Búalögum að rjettu lagi 3 áln. á hvern veg, hæð, lengd og breidd; hann er því jafnstór og faðmur af tígulsteini; í málfaðmi heys eiga eptir Búalögum að vera 7 málbandshestar eða fjórtán 16 fjórðungabaggar, eða 28 vættir.

*h)* Tímatal.

1 öld er 100 ár.

1 áratugur er 10 ár.

1 ár er 2 missiri.

1 hlaupár er 366 dagar.

1 almennt ár er 13 vikumánuðir, 12 almanaksmán., 52 vikur og 1 dagur, eða 365 dagar.

1 jafndægraár *(tropisk Solaar)* er 365 dagar, 5 stundir, 48 mínútur og $46\frac{5}{8}$ sekúndur.

1 tunglár (12 tungl) er 354 dagar, 8 stundir, 38 mínútur og 24 sekúndur.

1 vikumánuður er 4 vikur.

1 almanaksmánuður er 30 eða 31 dagur, en febrúarmán. ekki nema 28 dagar.

1 vika er 7 dagar.

1 dagur er 2 dægur, 8 eyktir, eða 24 stundir.

1 eykt er 3 stundir.

1 stund er 4 stundarfjórðungar, eða 60 mínútur.
1 stundarfjórðungur er 15 mínútur.
1 mínúta er 60 sekúndur.
(Ath. Hvert fjórða ár er hlaupár, eða þegar ártalinu verður deilt með 4; þó eru þau aldamótaár, þegar aldatölunni verður ekki deilt með 4, almenn ár; á 400 árum eru því ekki nema 97 hlaupár. Á hlaupári eru í febrúarmán. 29 dagar, og hlaupdeginum er skotið inn 24. dag mánaðarins. Dagurinn hyrjar á miðnætti. — Kirkjuárið byrjar 1. sunnudag í jólaföstu, en hið almenna ár byrjar 1. dag janúarmán. Dagur er lengstur um sumarsólhvörf, 21. d. júnímán., stytztur um vetrarsólhvörf, 21. d. desembermán. Dagur og nótt eru jafnlöng á jafndægrum, 21. d. marzm. og 21. d. septemberm. — Sólhvörf og jafndægur eru ekki ætíð 21. d. í þessum mán., heldur frá 20.—22.).

*Reglur.*

1) Um árið eru jafnopt 3 rbd. 4 mörk 13 sk., eins og sk. eru margir um daginn.

*Dæmi.*

1) Hvað er um árið, þegar 1 sk. er um daginn? Svar: 3 rbd. 4 mörk 13 sk. — Hvað er um árið, þegar 8 sk. eru um daginn? Svar: 30 rbd. 2 mörk 8 sk.

---

*IV. Talin vara.*

*a)* Kálhöfuð, síld, egg, saumur, tígulsteinn og þaksteinn, heyhestar, o. s. frv.

1 *Skok* er 3 *Snese* eða 60 einingar.
1 *Oel* er 4 *Snese* eða 80 einingar.
1 hundrað smátt, er 5 *Snese* eða 100 einingar.
1 hundrað stórt er 6 *Snese* eða 120 einingar.
1 þúsund er 1000 einingar.
1 þúsund stórt, er 10 hundruð stór, eða 1200 einingar.
1 *Snees* er 20 einingar.
1 *Trave* er 20 *Neg* eða einingar.
1 tugur er 10 einingar.

*Reglur.*

1) 1 *Skok* kostar jafnopt 3 mörk 12 sk., eins og hver eining kostar marga sk.

2) 1 *Oel* kostar jafnopt 5 mörk, eins og hver eining kostar marga sk.

3) 1 hundrað smátt, kostar jafnmarga rbd. og fjórskildinga, eins og hver eining kostar marga sk.

4) 1 hundrað stórt, kostar jafnmarga rbd. mörk og áttskildinga, eða jafnopt $1\frac{1}{4}$ rbd., eins og hver eining kostar marga sk.

5) 1 hundrað stórt, kost-

ar og jafnopt 20 rbd., eins og hver eining kostar mörg mörk.

(Við einingar og stórt hundrað, og stórt hundrað og einingar, gilda líka reglurnar 9 og 10 í landaurunum).

*Dæmi.*

4) Hvað kostar 1 *Skok*, þegar hver eining kostar 5 sk.? Svar: 5 sinn. 3 mörk 12 sk. eða 15 mörk 60 sk. (3 rbd. 12 sk.).

2) Hvað kostar 1 *Oel*, þegar hver eining kostar 3 sk.? Svar: 3 sinn. 5 mörk, eða 2 rbd. 3 mörk.

3) Hvað kostar 1 hundr. smátt, þegar hver eining kostar 9 sk.? Svar: 9 rbd. og 9 fjórskild., eða 9 rbd. 2 mörk 4 sk.

4) Hvað kostar 1 hundr. stórt, þegar hver eining kostar 7 sk.? Svar: 7 rbd. 7 mörk og 7 áttskild., eða 7 sinnum $1\frac{1}{4}$ rbd. (8 rbd. 4 mörk 8 sk.).

5) Hvað kostar 1 hundr. stórt, þegar hver eining kostar 2 mörk? Svar: 2 sinn. 20 rbd. eða 40 rbd.

*b)* Hnappar, skinn, viður, o. s. frv.

1 stórtylft *(Gros)* er 12 tylftir *(Dusin)*, eða 144 einingar.

1 tylft er 12 einingar.

1 *Zimmer* er 4 *Degger*, eða 40 einingar.

1 *Degger* er 10 einingar (skinn).

1 tylft *(Tylt)* er 12 einingar (borð).

(Í viðarkaupum er talið eptir *Ring* 240 *Staver*, þó er og talið eptir hundr. og stórum þúsundum.—Siglutrje og sívöl trje eru seld eptir *Palmer*, og eru 3 *Palmer* 10 þuml. 2 lín. [1]). Eikiplankar eru seldir eptir *Kravel*. Þegar plankinn er

$8\frac{1}{2}$ fet á lengd, á hann að vera 5 þuml. á þykkt.
9 — - — - — — — $4\frac{1}{2}$ — - —
10 — - — - — — — 4 — - —
12 — - — - — — — $3\frac{1}{2}$ — - —
15 — - — - — — — 3 — - —
24 — - — - — — — $2\frac{1}{2}$ — - —).

*Reglur.*

1) stórtylft kostar jafnopt 3 rbd., eins og hver eining kostar marga tvískildinga.

2) 1 tylft eða 1 stórtylft kostar jafnmarga rbd., eins og 1 borð (hnappur) eða tylft kostar marga áttskild.

3) Margfalda þá sk., er 1 skinn kostar, með 5, og deil með 12; þá koma út rbd. fyrir 1 *Zimmer*.

4) Margfalda þá rbd., er

[1]) 46 Palmer eru jafnar 13 fetum dönskum.

1 *Zimmer* kostar, með 12, og deil með 5; þá koma út sk. fyrir 1 skinn.

*Dæmi.*

1) Hvað kostar stórtylftin, þegar hver eining kostar 12 sk. (6 tvískildinga)? Svar: 6 sinn. 3 rbd. eða 18 rbd.

2) Hvað kostar 1 tylft eða stórtylft, þegar hvert borð (hnappur) eða tylft kostar 1 mark 8 sk. (3 áttskild.)? Svar: 3 rbd.

3) Hvað kostar 1 *Zimmer*, þegar hvert skinn kostar 8 sk.? Svar: 5 sinn. 8 eru 40, og 12 í 40 eru $3\frac{1}{3}$ sinnum; 1 *Zimmer* kostar því $3\frac{1}{3}$ rbd. eða 3 rbd. 2 mörk.

4) Hvað kostar 1 skinn, þegar 1 *Zimmer* kostar 5 rbd.? Svar: 12 sinnum 5 eru 60, og 5 í 60 eru 12 sinnum; það kostar því 12 sk.

*c*) Pappír.

1 *Balle* er 10 hrís *(Riis)*.

1 hrís er 20 bækur.

1 bók er 24 arkir af skrifpappír, en 25 arkir af prentpappír.

Í þessari töflu er þetta greinilegra.

| | | | *Arkir* | |
|---|---|---|---|---|
| Balle | Hrís | Bækur | skrifp. | prentp. |
| 1 | 10 | 200 | 4800 | 5000 |
| | 1 | 20 | 480 | 500 |
| | | 1 | 24 | 25 |

*Reglur.*

1) Margfalda þá sk., er skrifpappírsörkin kostar, með 50, eða 5; þá koma út rbd. fyrir 1 *Balle* eða 1 hrís.

2) Deil þeim rbd., er 1 *Balle*, eða 1 hrís kostar, með 50, eða 5; þá koma út þeir sk., er örkin kostar.

3) Margfalda þá sk., er bókin kostar, með 50, eða 5, og deil með 4; þá koma út mörk fyrir 1 *Balle*, eða 1 hrís.

4) Margfalda þau mörk, er 1 *Balle*, eða 1 hrís kostar, með 4, og deil með 50 eða 5; þá koma út þeir sk. er bókin kostar.

*Dæmi.*

1) Hvað kostar 1 *Balle* af skrifpappír, þegar örkin kostar 2 sk.? Svar: 50 sinn. 2 eru 100; þess vegna 100 rbd. — Hvað kostar 1 hrís af skrifpappír, þegar örkin kostar 4 sk.? Svar: 5 sinn. 4 rbd. eða 20 rbd.

2) Hvað kostar örkin,

þegar 1 *Balle* kostar 75 rbd.? Svar: $1\frac{1}{2}$ sk. — Hvað kostar örkin, þegar 1 hrís kostar 10 rbd.? Svar: 2 sk.

3) Hvað kostar 1 *Balle*, þegar bókin kostar 4 sk.? Svar: 50 sinnum 4 eru 200, og 4 í 200 eru 50 sinnum; 1 *Balle* kostar því 50 mörk eða 8 rbd. 2 mörk. — Hvað kostar 1 hrís, þegar bókin kostar 12 sk.? Svar: 5 sinnum 12 eru 60, og 4 í 60 eru 15 sinn.; þess vegna 15 mörk, eða 2 rbd. 3 mörk.

4) Hvað kostar bókin, þegar 1 *Balle* kostar 12 rbd. 3 mörk (75 mörk)? Svar: 4 sinn. 75 eru 300, og 50 í 300 eru 6 sinnum; þess vegna 6 sk. — Hvað kostar bókin, þegar 1 hrís kostar 3 rbd. 2 mörk (20 mörk)? Svar: 4 sinnum 20 eru 80, og 5 í 80 eru 16 sinnum; bókin kostar því 16 sk. eða 1 mark.

# HIÐ HELZTA

*af peningum, vigt og máli, í öðrum ríkjum.*

## *1. Prússaveldi.*

*a.* Peningar.

1 prússneskur *Courant Thaler* er 30 *Silbergroschen* eða *Neugroschen.*

1 *Silbergroschen* er 12 *Pfenninge.*

(1 prússn. *Cour. Thaler* gildir 1 rbd. 30$\frac{6}{7}$ sk., og 1 *Silbergroschen* gildir því nær 4$\frac{1}{4}$ sk. Hinn prússn. kúrant er einkum hafður í norðurhluta Þýzkalands).

*b.* Vigt.

1 *Centner* er 110 pund.

(Þetta pund er nokkru ljettara en danska pundið, því 31 prússnesk pund eru jöfn 29 dönskum).

*c.* Mál.

1. Lengdarmál.

Prússneskt fet er jafnt dönsku feti (það er almennt kallað rínlenzkt fet).

Prússnesk alin er þeim mun lengri en dönsk alin, að 16 prússn. álnir eru 17 danskar.

2. Kornmál.

1 *Scheffel* er 16 *Metzen.*

(*Scheffel* er 1$\frac{7}{9}$ teningsfet að innanrúmi; 81 *Scheffel* eru því 32 korntunnur danskar, og 81 *Metzen* eru 64 fjórðungsk., eða 2 tunn.).

3. Lagarmál.

Lagarmálið er *Qvart,* er tekur $\frac{1}{3}$ *Metze,* það er þeim mun stærra en pottur, að 27 *Qvart* eru nákvæmlega mældir 32 pottar danskir.

## *2. Þýzkaland.*

*a.* Peningar.

Peningareikningurinn hefur verið mjög margbreyttur, en er að líkjast hinum prússneska.

*b.* Vigt og mál.

Í tollsambandinu í Prússaveldi og norðurhluta Þýzkalands er haft pund það, sem kallað er tollpund, og vegur $\frac{1}{2}$ *kilogramm* franskt eða 1 pd. danskt. 100 tollpund eru talin 1 *Centner.*

Fetið er þar hið rínlenzka eða danska fet; vigt og mál eru því eins og í Danmörku.

### *3. England.*

*a.* Peningar.

Á Englandi eru gullpeningar hafðir fyrir gjaldeyri, en silfurpeningar að eins álitnir sem smápeningar, og er enginn skyldur til að veita móttöku meira fje í silfurpeningum, en nemur ákveðnu verði.

1 *pund sterling* (L *sterl.*) er jafnt gullpeningi, er nefnist *sovereign* (framb. *sovverín*). Eptir því sem hefur verið til þessa, að gullið sje $15\frac{1}{4}$ sinnum dýrara en silfur, þá gildir L. *sterl.* 8 rbd. 5 mörk; í silfurpeningum er það 1 rbd. 1 mark 11 sk.

1 L. *sterl.* er 20 *shillings* (*sh*).

1 sh. er 12 *pences* (*d*).

(Brjefpeningar eru til á Englandi, sem gilda 5 pd. *sterl.*, og þar um fram. Í slegnum gullpeningum eru til 10 faldir, 5 faldir og hálfir *sovereigns.* Slegnir silfurpeningar eru til, er gilda 5 *shill.* (króna), $2\frac{1}{2}$ *shill.* ($\frac{1}{2}$ króna), 1 *sh.*, 6 *d.*, 4 *d.*, 3 *d.* Eirpeningar eru og til, er gilda 1 *d.*, $\frac{1}{2}$ *d.* og $\frac{1}{4}$ *d.*

*b.* Vigt.

Pundið á vöruvog enska (*avoir-dupoids* framb. *avoar-dupoa*) er þeim mun ljettara en hið danska, að 97 pund ensk eru jafnþung 88 dönskum.

1 *ton* er 20 *hundredweights* (framb. *höndreduets*) eða *centner* (*cwt*).

1 *cwt* er 4 *quarters* eða 112 pund ensk.

1 ton er því 2240 pund ensk eða 6 skp. 7 lýsip. á danska verzlunarvog.

Pundið skiptist í 16 *únsíur* (*ounces* framb. *ánses*), og hver *únsía* í 16 drökmur (*drams*).

Á peninga - og lyfjavog er pundið (*troypound*) ljettara.

Á peningavog er

1 pund 12 *únsíur.*

1 *únsía* 20 *pennyweights* (framb. *penninets*).

1 *pennyweight* 24 grön (*grains* framb. *grenns*).

Á lyfjavog er

1 pund 12 *únsíur.*

1 *únsía* 8 *drökmur.*

1 *drakma* 3 *skrúplar.*

1 *skrúpull* 20 *grön.*

Pundið er því jafnþungt, hvort heldur er á peningavog eða lyfjavog; því á hvoratveggja vogina skiptist pundið í 12 *únsíur*, og *únsían* í 480 grön; en vöruvogarpundið er þeim mun þyngra, að það er 7000 lyfjavogargrön, en lyfjavogarpundið 5760 lyfjavogargrön, en þar eð vöruvogarpundið skiptist í 16 *únsíur*, en lyfjavogarpundið í 12, þá er *únsían* á lyfjavog þeim mun þyngri en

á vöruvog, að 175 *únsíur* á lyfjavog eru 192 *únsíur* á vöruvog, eða 100 *únsíur* á lyfjavog eru því nær 110 á vöruvog.

c. *M á l.*

1. Lengdarmál.

Fetið er nokkru styttra en danska fetið, svo að 69 fet ensk eru 67 fet dönsk eða rínlenzk.

1 míla er 8 *furlongs* (framb. *förrlongs).*

1 *furlong* er 40 *perches* (framb. *pertsches).*

1 *perche* er $5\frac{1}{2}$ *yards* (framb. *jards*).

1 *yard* (alin) er 3 fet, og eru því 46 *yards* 76 álnir danskar, og ensk míla er 5127 fet dönsk, svo að 19 mílur enskar eru hjer um bil 4 danskar.

1 *fathom* (framb. *faðom,* faðmur) er 2 *yards.*

1 fet er $1\frac{1}{3}$ spönn, 3 þverhandir eða 12 *inches* (framb. *intsches,* þumlungar).

2. Korn - og lagarmál.

*Imperial - quarter (impiríél-)* er liðugt helmingi stærri en korntunna dönsk, eða 11 *quarters* eru 23 korntunnur danskar.

1 lest er 2 *weys* (ues), eða *tons.*

1 *ton* er 5 *quarters.*

(Lestin er því svo að segja 21 tunna dönsk).

1 *quarter* er 2 *combs (komms).*

1 *comb* er 4 *bushels* (*boschels*).

1 *bushel* er 4 *pecks.*

1 *peck* er 2 *gallons.*

1 *gallon* er 2 *pottles,* 4 *quarters,* 8 *pints* eða 32 *gills* (*dsjills*).

1 *bol* er 6 *bushels.*

(1 *gallon* tekur $4\frac{2}{3}$ potta danska, eða nákvæmara, 27 *gallons* eru 127 pottar danskir. *Gallon* er einkanlega lagarmál).

4. *Frakkland.*

*a.* Peningar.

1 *franc* er 100 centimes (*sangtím).*

(*franc* gildir $34\frac{1}{5}$ skildinga danska. Slegnir silfurpeningar eru 5 *francs* - peningar (1 rbd. 4 mörk 11 sk.), 2 *francs* - peningar (4 mörk $4\frac{2}{5}$ sk.), 1 *franc,* $\frac{1}{2}$ og $\frac{1}{4}$ *franc.* Slegnir gullpeningar eru til, sem gilda 40 *francs* og 20 *francs.* 20 *francs* - gullpeningar, er voru slegnir, meðan keisarastjórnin var, heita *Napoleond'ors.* Gullið er metið $15\frac{1}{2}$ sinnum dýrara en silfur.

*b.* Vigt.

Vigtin er byggð á þunga vatns, sem rúmast í teningsmynduðu íláti, sem er $\frac{1}{100}$ *metre* á hvern veg; vatnið á að vera sem þjettast, við $4^{0}$ *C.* hita, því þá fer minnst fyrir því. Þessi þungi heitir *gramme*

(*gram*). 1000 *grömm*, eða það, sem 1 *litre* vatns vegur, heitir *kilogramme*, og það er jafnt 2 pundum dönskum.

1 *quintal* (*kengtal*) er 100. *kilogrömm*, sem og kallast *metrisk centner*.

Alls konar vörutegundir eru vegnar á sömu vog.

*e. M á l.*

1. Lengdarmál.

1 *metre* er 443 $\frac{3}{10}$ Parísarlínur, eða $3\frac{3}{16}$ fet dönsk, 16 *metres* eru því 51 fet danskt. Minna lengdarmál kemur fram við það, að deila með 10, og eru nöfnin á því mynduð með því að bæta framan við latínsku orðunum: *deci*, *centi*, *milli*, er þýða þá: tíundu, hundruðustu og þúsundustu parta. 1 *metre* er þannig 10 *decimetres*, 100 *centimetres*, 1000 *millimetres*. 1 *millimetre* er ekki full hálf lína í dönsku máli. Lengra mál en *metre* myndast á sama hátt með grísku orðunum: *deka*, *hekto*, *kilo*, *myrja* (10, 100, 1000, 10000). Þannig eru 10 *metres* 1 *dekametre*, 100 *metres* 1 *hektometre*, o. s. frv.; 10000 *metres* eða *myrjametre* er hafður sem vegamál (míla), og er hjer um bil $1\frac{1}{3}$ úr danskri mílu, eða nákvæmara: 64 *myrjametres* eru 85 mílur danskar.

2. Lagarmál.

Teningur, sem er $\frac{1}{10}$ úr 1 *metre* á hvern veg, heitir *litre*, er tekur líðugan pott danskan, eða 57 *litres* eru 59 pottar.

100 *litres* eru 1 *hektolitre*, sem er kornmálið, og er þeim mun minni en korntunna dönsk, að 32 *hektolitres* eru 23 korntunnur danskar.

Þessi vigt og mál Frakka, sem er mjög þægileg í reikningi, þar eð allt af hleypur á tugum, er nýkomin á fót, og ýmsar aðrar þjóðir farnar að reyna til, að leiða þessa vigt og mál inn hjá sjer. Enn helzt þó við á Frakklandi ýmislegt úr hinni eldri vigt og máli, t. a. m. Parísarmarkpund (*livre poids de marc*), sem er mjög litlu ljettara en danskt pund; það skiptist í 16 *únsíur*.

Til eldra málsins heyrir Parísarfetið *pied du roi* (*pje du roa*), sem eru 6 í 1 *toise* (*toas*) eða faðmi; Parísarfetið er litlu stærra en danskt fet.

1 *aune* (*on*) er $526\frac{5}{6}$ Parísarlínur eða hjer um bil 2 álnir danskar.

Vínmálið er *muid* (*muí*), er tekur 864 *pintes* (*pengt*); 1 *pinte* er litlu minni en pottur danskur.

*5. S p á n.*

*a.* Peningar.

Peningar eru reiknaðir

eptir *real de vellon,* sem er 34 *maravedis de vellon.* Stundum er reiknað eptir *escudos de vellon,* sem er *10 reales de vellon* (*Rvn*).

1 *pjaster* er 20 *Rvn,* 1 *Rvn.* er því $9\frac{1}{6}$ rbsk., og 1 *pjaster* er 1 rbd. 5 mörk $7\frac{1}{3}$ sk.

1 *maravedis de vellon* er því liðuglega $\frac{1}{4}$ sk. Önnur peningategund er *reales de plata antiqua* (*Rpta*), er einnig skiptist í 34 *maravedis di plata. Rpta* er næstum helmingi stærri en *Rvn.;* því 17 *Rpta* eru 32 *Rvn. Maravedis di plata* eru 375 í einum *vixl-ducat* (*ducado di cambio*), sem er þess vegna á við 1 rbd. 4 mörk 5 sk. Gullpeningarnir eru tvöfaldar *pístólur* (*Dubloner*) og ferfaldar (*Quadrupler*). Pistólurnar hafa misjafnt gildi, og eru hjer um bil jafnar þýzkum *Friðriksd'orer.* Slegnir silfurpeningar eru pjastrar, sem einnig eru misjafnir.

*b.* Vigt.

1 *Qvintal macho* eða hið stærra *centner* er 6 *arrobas,* en hið almenna *centner* eða *qvintal* er 4 *arrobas.*

1 *arrobas* er 25 pund (*libbras*).

1 pund er 2 merkur.

Pundið, sem kallað er Kastilíupund, er þeim mun minna en danskt pund, að 25 Kastilíup. eru 23 pd. á danska verzlunarvog. Mörkin er höfð sem gullvigt, silfurvigt og lyfjavigt.

*c. Mál.*

1. Lengdarmál.

1 *pie* (*fet*) er $1\frac{1}{3}$ *palmos,* 12 *pulgados* (þumlungar), 15 *dedes* eða 144 *lineas.*

3 *pies* eru 1 Kastilíu-*vara* eða alin.

1 *breza, estado* eða *toesa* (faðmur) er 3 *varas* eða 6 *pies.*

2. Kornmál.

1 *cahiz* er 12 *fanegas.*

1 *fanega* er 12 *almudes* eða *celemines.*

1 *almude* er 4 *qvartillos*

33 *fanegas* eru 13 korntunnur danskar.

Vínmálið er *cantara* eða *arroba major,* er tekur liðuga 16 potta danska.

## 6. *Rússland.*

*a.* Peningar.

1 *rubel* er 100 *kopek.*

1 *rubel* gildir 1 rbd. 2 mörk $8\frac{3}{4}$ sk.

Slegnir gullpeningar eru: dúkatar, er gilda 3 *rubler,* og *imperialer,* er gilda 10 *rubler.*

Slegnir peningar úr *platínu* eða hvítagulli eru dúkatar, er gilda 3 *rubler, dubloner,* er gilda 6, og *qvadrupler,* er gilda 12 *rubler.*

*b.* Vigt.

1 *berkowitz* er 10 *pud.*
1 *pud* er 40 *pund.*
1 pund er 32 lóð.
Rússneska pundið er þeim mun minna en hið danska, að 83 rússnesk pund eru að eins 68 dönsk. 1 *berkowitz* er $327\frac{3}{4}$ pund dönsk, eða 1 skippund $7\frac{3}{4}$ pund.

*c.* *Mál.*

1. Lengdarmál.

1 *saschén* (faðmur) er 3 *arschin* eða 7 fet ensk.

1 *arschin* er 28 þumlungar, eða 16 *werschock.* 15 *arschiner* eru 17 álnir danskar, en 10 *werschock* eru 17 þumlungar danskir.

2. Kornmál.

1 *tschetwert* er 8 *tschetwerik.*
1 *tschetwerik* er 2 *osmin.*
1 *osmin* er 2 *pajok.*
1 *pajok* er 2 *garnez.*
2 *tschetwert* eru hjer um bil 3 korntunnur danskar.
Í Kúrlandi og Líflandi er kornmálið tunna, er skiptist í 2 *loof.* Tunnan er hjer um bil eins og korntunna dönsk, þó heldur minni, því 50 tunnur danskar eru 101 *loof,* eða $50\frac{1}{2}$ tunna.

7. *Sambandsríkin í Vesturálfu.*

Peningarnir eru *dollars,* hjer um bil jafnir spánskum pjöstrum; 1 *dollars* gildir 1 rbd 5 mörk $6\frac{6}{7}$ sk. *Dollars* er skipt í 100 *cents* eða 1000 *mills.* Slegnir gullpeningar eru *eagles* (arnir) heilar, hálfar og fjórðu partar. 1 *eagle* gildir 10 *dollars,* og er því á við 2 L. *sterl.* 1 *sh.* $1\frac{2}{3}$ *d.*

Vigt og mál er hið sama og í Englandi.

